# Dagsbrún.

Mánaðarrit
til stuðnings frjálsri trúarskoðun.

II. | GIMLI, MAN., MAÍ 1894. | 5.

## TRÚIN Á GUÐ.

EFTIR M. J. SAVAGE.

-:o:-

### II. ER GUÐ TIL?

Efni það er nú skal um tala, er eitt hið erfiðasta og vandamesta sem mögulegt er að hugsa sér. Menn gjöra sér svo rangar hugmyndir um það; það fylgja þessu efni og þessari hugmynd svo margir fordómar, svo miklar vonir, svo mikill ótti og svo mikill misskilningr, að ég geri mér tæplega von um að menn geti fyllilega skilð mig, eða að meðferð mín á því geti orðið fullnægjandi fyrir hvern og einn. Ég ætla mér að hverfa með öllu frá hinni gömlu sannana aðferð og hinum gömlu sönnunum, og taka nýja stefnu, nýja ræðu-aðferð. Ég vil fyrst og fremst biðja menn að hafa það fast í huga, hver tilgangr minn er. Ég ætla ekki að koma fram með þá spurningu, eða sanna það, að einhver sérstök tegund af guði sé til, ekki að tala um það, hvort til sé einhver guð í alheiminum, eins og ég eða þú hugsar þér hann, ekki um það, hvort til sé persónulegr guð eða ekki, ekki um það, hver séu einkenni hans eðr eiginlegleikar. Þetta kemr fram seinna hjá mér smátt og smátt, en í þetta sinn get ég ekki átt við það. En ég vil biðja yðr að hafa í huga þessa einu spurningu. Er nokkur vera til, sem vér getum kallað guð?

Hið nýfædda barn er jafnvel löngu eftir fæðinguna óvitandi um

mismuninn eðr aðgreininguna á sjálfu sér og hlutunum, sem eru í kringum það. Hið fyrsta skref sem maðrinn stígr í þessum furðulega heimi er því það, að verða þess vísari að til eru að minsta kosti tvær verur í tilverunni, maðrinn sjálfr og eitthvað fyrir utan hann, sem er annað en maðr sjálfr. Hið næsta skref sem vér stígum er það, að vér verðum þess vísari, að þessi „aukavera" er hinn undrsamlegi heimr, er vér sjáum í þúsund mismunandi myndum, með fjölbreyttum litum og margvíslegum kröftum. Hér sjáum vér að er eitthvað fyrir utan oss sjálfa, sem er til óháð vilja vorum; það er vera sú, sem maðrinn er að byrja að læra að þekkja, en er alls eigi farinn að skilja. Þessi vera, köllum hana veröld, eða alheim, eða hvað sem vér viljum, kemr oss í ljós sem jörð, gras, tré, lækir, fljót, fjöll, ský, úthaf og svo sem hinn takmarkalausi geimr stjarnanna, og stjörnu- eða sólna-heimarnir umhverfis oss, og þessi vera var til áðr en vér vorum fæddir, og mun vera til eftir dauða vorn. Þessi vera heldr áfram að vera til alveg óháð oss og vilja vorum. Á einhvern leyndardómsfullan hátt rekjum vér upphaf vort til þessarar veru. Af þessari veru erum vér komnir; ekki einungis líkamir vorir, heldr einnig sálir vorar. Af þessari leyndardómsfullu uppsprettu hefir sprottið það, sem vér köllum líf; lífið í sinni óendanlegu keðju frá hyldýpinu undir fótum vorum til himnanna yfir höfðum vorum. Af þessari veru hefir þroskast fótrinn og höndin og heilinn, og af heilanum fæðist hugsun og tilfinning, kærleikr og hatr, von og ótti; ekki einungis dýrið, sem hungrar, heldr maðr, eins og Shakespeare, sem hugsar, sem býr til persónur eins og Hamlet, maðr eins og Goethe, er býr til Faust, eða Kristr, sem býr til bænina Faðir vor, sem krýpr á kné fyrir guði og tilbiðr hann, sem lyftir upp og vekr strengi hjartnanna öldum saman með eftirdæmi sínu og hinni háleitu kenningu sinni. Á einn eðr annan hátt hefir þetta fæðst af þessari veru, sem vér getum kallað veröld eða alheim, eða hvað sem vér viljum. Þetta „Það" er með orðum sálmaskáldsins „Hann," á ég að segja það? nei! ekki strax. Í staðinn fyrir orðið „hann" skulum vér hafa orðið „það," því vér skulum ekki taka neitt sem fullsannað, sem ekki er það. Og vér skulum sjá, hvort það verðr nokkuð skiljanlegra, ef vér segjum að „það" hafi skapað oss, en ekki vér sjálfir.

Til þessarar veru þurfum vér alt vort líf að sækja, alla vora ást og mannkærleika, farsæld og frið, fegurð og von. Þessi vera er það, sem einhvern tíma, þrátt fyrir alla vora varkárni, mun kalla oss héðan,

hvort sem vér viljum eða ekki. Vér hættum þá að lifa hér hjá vinum vorum, en verðum að fara — hvert? Þessi vera er löggjafi vor, hvort sem vér köllum hana „það“ eða „hann.“ Lífið felst í lögmáli hennar. Með því að uppgötva lögmál þau er stjórna alheiminum og hlýða þeim, getum vér öðlast öll gæði lífsins, heilsu og hugvit, fegurð og gleði. Því öll gæði, fegurð og máttr heimsins fellr þeim einum í skaut, sem þekkja og hlýða vilja eðr lögum þessarar veru. Hins vegar er vera þessi óblíðkanleg og hegnir eilíflega, óumbreytanlega hverjum þeim, sem brýtr lög hennar. Að hlýða henni er að lifa, sé á móti henni brotið, þá er dauðinn vís. Að óhlýðnast henni er að stytta stundir lífsins, og sé óhlýðnin mikil er það sjálfsagðr dauði.

En hve gömul er nú vera þessi? Hún er eilíf. „Frá eilífð til eilífðar ert þú . . .“ (ég vil ekki enn þá segja 'guð'). Vér skulum ekki flana að neinu. Þessi vera er eilíf. Vér eigum mjög örðugt með, að hugsa oss upphaf, vér eigum örðugt með að hugsa oss endir. Vér getum reynt að hugsa oss tíma þá, er sólin og tunglið og allr þessi sýnilegi alheimr var ekki til, þegar rúmið var autt. Vér getum má ske hugsað oss þá tíma, en vér getum ekki hugsað oss, að vera, sem hefði meðvitund um sjálfa sig, hafi getað verið til frá eilífð, í auðn og tómi; því vér getum ekki hugsað oss nokkurt líf, nema það sé starfandi. Vér hljótum því annaðhvort að hugsa oss, að hlutirnir hafi verið til frá eilífð, eða þá að þeir hafi orðið til — alt í einu, án nokkurrar orsakar, sem er ó m ö g u l e g t (absurd, eiginl. vitlaus). Þessi vera, sem umkringir oss alla vega, er því eilíf vera. Og ekki einungis það, heldr er hún líka óendanleg vera. En eins og vér getum hvorki hugsað oss upphaf eða endir hennar, eins getum vér ekki skilið óendanleika hennar, eða að hún hafi engin takmörk. Vér skulum taka til skýringar reikningsdæmi eitt lítið, og nota það sem stig í tröppunni upp að ómælileik alheimsins. Ef að járnbrautarlest ætti að fara á stað í dag á leið til sólarinnar með 60 mílna ferð á klukkutímanum og halda áfram í 24 stundir á degi hverjum, og 365 daga á ári hverju, þá mundi hún vera meira en 170 ár á leið sinni til sólarinnar. Þó er sólin næsti nágranni vor, og sólkerfi vort alt er sem örsmár depill í hinu óendanlega rúmi. Vér skulum hugsa oss annað dæmi. Ljósið er á leiðinni frá sólu til jarðar lítið meira en 8 mínútur, þar sem járnbrautarlestin mundi vera 170 ár að fara sömu leið. En nú vitum vér að til eru sólir svo langt í burtu, að ljósið með sinni feykilegu ferð mundi vera þúsundir og jafnvel miljón-

ir ára á leiðinni þaðan. Getum vér þá ekki sagt að vera þessi sé óendanleg. Vísindamaðrinn, sem sitr í lestrarstofu sinni með pennann í höndunum veit það, að heimrinn er óendanlegr. Þó að vér flygjum á vængjum ljóssins til stjörnu þeirrar, er að eins sézt glampi af í hinum bestu stjörnukíkirum og ljósið hefir verið 25 miljónir ára á leiðinni frá, hvað mundum vér sjá? Það væri að eins skref eitt út í sólnageiminn, út í þetta haf af sólum, stjörnum og heimum. Og ef vér gætum hugsað oss, að vér stæðum á endimörkum þessa hins sýnilega alheims og gætum litið ofan í rúmið, hvað þá? Vér mundum sjá rúm, rúm, einlægt rúm að eilífu. Eða, ef vér gætum hugsað oss múr frá hvirfilpunktinum efst uppi yfir höfðum vorum og niðr til fótapunktsins neðst í afgrynninu undir fótum vorum, alls staðar væri hið sama rúm útþanið, útbreitt, endalaust. — Þetta er hin óendanlega eðr ótakmarkaða vera, sem vér nú erum að hugsa um.

En hún er ekki einungis óendanleg, því hún er einnig almáttug. Vér tölum oft um afl. Nú skal ég koma með dæmi til að skýra fyrir yðr aflið eins og fjarlægðina áðan. Ég held á vatnsdropa í hendinni. Hvaða afl ætlið þér að sé í dropa þessum? Hið efnafræðislega afl í dropa þessum er hið sama og í eldingunni, er hún klýfr skýin og þruman dynr í loftinu. Vitið þér hvað skilið er við þyngdaraflið? Hugsum oss járnbút einn, mílu á þykt og lengd og breidd. Hann er æði þungr þessi bjálki, en hvort ætlið þér nú að þyngdaraflið í honum sé eins mikið, eins og afl það, er útheimtist til þess að halda tunglinu föstu á rás sinni í kringum jörðina. En ég get sagt yðr það, að til þess að jafnast við það afl þyrftu 87.000 járnbútar, hver mílu enska á hæð, mílu á breidd og mílu á lengd. Og þó er tunglið að eins ofrlítið hnattbrot og sólkerfi vort er sem smábaunir einar í samanburði við alheiminn. Við það að íhuga þetta fáum vér ofrlitla hugmynd um þetta geysilega afl, almættið. Þetta afl heldr saman hnöttunum í sólkerfi hverju, og svo aftr þúsundum sólkerfa er hveit eitt sveiflast braut sína um geiminn. Og er vér íhugum þetta, sjáum vér að vér höfum hér fyrir oss afl það, er vér köllum almætti.

Svo vitum vér og að vera þessi, sem fjölgyðismenn tilbáðu og dýrkuðu í þúsund myndum, er *ein vera*, en ekki margar. Hin merkilegasta niðrstaða, sem vísindi hinna nýrri tíma hafa komist að, er þessi eining heimsins, hann er kerfi sem tengt er saman með einu og sama lífi, einu og sama lögmáli, einu og sama afli. Ég hygg, að brátt sé

enginn efi á því, að efnið í alheiminum sé eitt og hið sama. Stjörnukíkirarnir hafa sýnt oss það, að í sólunni og tunglinu og hinum fjarlægustu stjörnum, sem vér sjáum að eins glampa af í bestu kíkirum, séu hinir sömu málmar og hin sömu efni og á hnetti þeim, sem vér lifum á. Efnið er hið sama um alheiminn. Efnafræðingarnir hafa rakið efni þessi niðr til sárfárra frumefna, eg bestu vísindamenn í þeirri grein eru fulltrúa um það, að aðalfrumefnin séu ekki 50 eða 60 sem menn hafa ætlað til þessa, heldr að eins eitt, og að allr þessi óendanlegi breytileiki heimsins stafi af hinni margföldu samblöndun þessara einföldu efna, eða réttara, óendanlegum breytileika efnisins.

En það sem vér hiklaust getum sagt er það, að til sé að eins eitt afl í alheiminum. Það er eitt af því sem vísindin hafa frætt oss um, og kallast það viðrhald og skyldleiki aflanna. Aflið kemr fram í ýmsum myndum, svo skiftir tugum þúsunda, og er það ákaflega fjölbreytt, en þó er aflið að eins eitt. Vér skulum reyna að skýra það dálítið og hugsa oss, að undir loftinu í stofunni vorri hangi járnbútr, þumlungr í þvermál. Það er efnið sem vér sjáum, nú skulum vér hafa einhvern útbúnað til þess að hreifa hann með miklum hraða, hann fer fyrst á hreifingu mikla, og aukist hreifingin kemr fram hljóð og hvinr af honum; hreifingin hefir þá orðið að hljóði; sé hann látinn fara enn harðara, verðr hann rauðr af hita; hreifingin breytist þá í lit; sé nú hraðinn aukinn enn meira, verðr bútrinn hvítr af hita og streymir þá af honum ljós sem af sólu væri; hreifingin er þá orðin að ljósi. Þetta er lítið sýnishorn af því hvernig eitt aflið í heiminum breytist í annað, og getum vér af þessu gjört oss hugmynd um einingu aflsins.

Þessi vera sem umkringir oss, og sem vér erum af komnir, þessi óendanlega og eilífa og almáttuga vera er þá að eins ein.

Þá getum vér og sagt það með fullri vissu, að í sögu heimsins getum vér frá upphafi vega og allt niðr til vorra tíma rakið samanhangandi þráð, tilgang sem vér getum skilið. Ég fer ekki fram á það, að þessi skynsemi sem vér rekjum í gegnum söguna sé lík vorri mannlegu skynsemi, alt það sem ég ber fram, er það, að gegnum aldirnar sjáist í sögunni tilgangr, mark og mið sem vér getum skilið og sem hnýtir aldirnar og viðburðina saman.

En nú erum vér komnir að þeim punkti, að ég hygg, er ég með ástæðum get sagt, að vér þekkjum eðr vitum af veru þeirri, er hefir aðaleinkenni þau er einkenna hugmynd þá er vér köllum Guð. Það er

vera sú, sem sjálf er til (self-existent), hún er eilíf, óendanleg, vér erum af henni komnir, hún stjórnar oss með lögum sínum, hún er almáttug, hún er hin eina (vera sem til er). Sporin veru þessarar niðr um aldirnar sýna skiljanlegan tilgang. En er nú ekki þetta hið sama og vér höfum í huga er vér nefnum guð. Persónuleiki, eins og menn vanalega skilja við það, er ekki nauðsynlegr eðr sjálfsagðr eiginlegleiki guðs. Persónuleiki hefir í sér fólgna takmörkun og endanleika eðr dauða. Til þess að fullkomna hugmynd vora um guð, er því ekki nauðsynlegt að vér segjum að hann sé persónulegr í hinni vanalegu merkingu þess orðs. En hvaða nafn eigum vér að gefa veru þeirri, sem er óendanleg og eilíf og almáttug, sem skapar líf og eyðir því, veru þeirri, sem frá er komið vitið og persónuleikinn, hugsunin, viljinn, ástin, vonin, óttinn, tilhneigingin, tilbeiðslan, hvaða orð eigum vér að hafa til að tákna þvílíka veru? Og það er ekki nóg með þetta, ég þarf enn að vekja athygli yðar á einu atriði. Þessi vera hefir blásið í brjóst mönnum um liðnar aldir tilfinningum lotningar, virðingar, tilbeiðslu, kærleika. Það hefir oft komið fram í óskaplegum myndum hjá hinum viltu og ómentuðu þjóðum á fyrri dögum, en það hefir og komið fram og verið framsett í dýrðlegum hugmyndum hjá skáldum þjóðanna. Er það nú virkilega svo, að tilfinningar þessar séu hugarsmíði eitt, og ekkert meira. Er það ekki athugavert að hugsa til þess, að hrúga ein af hreifingarlausu dauðu efni, eins og þessi heimr eða guð, skuli geta látið annan líkama af hreifingarlausu dauðu efni (manninn) finna og skilja hugmyndina um hið háleita og heilaga, skuli geta látið hann falla fram á kné sér og tilbiðja það? (eða að efni skuli geta látið annað efni krjúpa á kné fyrir sér og tilbiðja sig?). Hvað er það við hið dauða eðr líflausa efni, sem vér getum tilbeðið? Hvernig stendr á því að vér veljum þessum tilfinningum lotningar og eftirlöngunar hin háleitustu nöfn, og einkennum þær með hinu veglegasta sem vér getum fundið í náttúrunni? Þessar tilfinningar eru sannarlega til vinir mínir, það er ekki hægt að neita því, fremr en hryggjunum á Klettafjöllunum, og það hlýtr að vera einhver ástæða fyrir þeim, eins og einhver hlýtr að vera orsök til Klettafjallanna, og þessi ástæða þarf skýringar við. Jæja! Hvernig stendr þá á því, að ein smáögn efnisins beygir kné sín í tilbeiðslu fyrir annari smáögn, ef að hvorutveggja er sálarlaust, líflaust, hreifingarlaust. Mér liggr við að segja, að þetta verði botnlaus endileysa, ef að í alheiminum í kring um mig er ekkert

annað, en dauði og hreifingarleysi, en ég sjálfr, maðrinn, er hvorki dauðr né hreifingarlaus og hefi einhvern veginn fengið sterka löngun til þess að beygja kné mín og sýna af mér lotningu og tilbeiðslu. Þetta er alls ómögulegt að útskýra. Þér megið leyta sem þér viljið, en þér getið aldrei komið með neina skynsama útskýringu á því.

Eigum vér þá að kalla veru þessa guð, eða náttúru, eða lögmál, eða afl, eða alheim? Ég skal segja yðr ástæðuna fyrir því að ég kalla hana guð. Ég ætla ekki að valdbjóða nafn það, er þér skuluð nefna hana. Orðin „náttúra," „alheimr," „lögmál" eða „afl" hafa öll fengið vissa þýðingu, og hjá öllum þessum orðum útilokar þýðingin hugmyndina um „meðvitundarfult afl" (conscious power). En ef að þér nú hafið eitthvert þessara nafna um veru þessa, þá gjörið þér það, sem þér hafið ekki leyfi til. Það er að segja, þér sláið fastri þessari mikilvægu spurningu, og sláið henni fastri á neitandi hátt. Þér sláið því föstu að í henni sé ekkert annað en það, sem þér kallið efni; en það er einmitt spurningin, sem fyllir nú huga hinna hugsandi manna.

Setjum nú svo að ég talaði til yðar og vildi ekki kalla yðr mann, en kallaði yðr ná eða lík. Nú höfum vér orðið „nár" um líkama mannsins þegar lífið er slokknað. Vér tölum um nái eða lík hinna dánu. Vér meinum líkamann, þegar það sem vér köllum sálu eða hugsun eðr tilfinning, er farið, án tillits til þess, hvert þetta hafi farið, eða hvað það hafi verið. Dauðinn einkennir líkið. Þegar ég aftr á móti kalla yðr mann, þá ákveð ég ekki neitt um spurninguna. Ég fullyrði ekki með því, að þér hafið sálu er sé aðgreinanleg frá líkama yðar, sem taka megi út úr líkamanum og geti haldið fram tilveru sinni einhvers staðar á öðrum stað. Ég nota að eins orð það sem getr bæði gripið yfir líkama og sál. Eins er það, er ég hef orðið „guð" um alheiminn, þá tek ég ekki til neitt orð, er tákni hugmynd þá að guð búi á einhverjum vissum stað, eða að þessi guð sé aðgreindr frá alheiminum, er geti farið út úr alheiminum og horft á hann, eins og maðr fer út úr húsi sínu til að horfa á það. Ég hefi að eins orð það er grípr yfir alheiminn, og væri í honum eitthvað meira en náttúran, sem vér köllum, þá grípr það yfir það líka. En þess háttar orð þekki ég ekki á neinni tungu annað, en þetta eina, orðið „guð."

Nú vil ég koma fram með þá spurningu — og svara henni ef ég get — hvort vera þessi, sem vér höfum verið að tala um, sé e f n i,

eftir merkingu þeirri sem í því orði liggr, eða hvort það sé andi. Það er aðalhnútrinn, sem umræðan snýst um.

Vér skulum nú fyrst kalla það „efni.“ En ef vér gjörum það, þá verðum vér og um leið að snúa alveg við þýðingu þessa orðs. Vér verðum þá að játa það, að efnið geti hugsað, geti fundið til, geti elskað, geti hatað, geti fundið til löngunar og eftirsóknar, geti tilbeðið annað efni.

En nú skulum vér stíga annað sporið. Vér erum vanir að ætla að „efni“ sé mjög einfaldr hlutr, vér ætlum að vér vitum um það alt, sem unt er að vita, en álítum hins vegar, að „sálin“ eða „andinn“ sé hinn mikli leyndardómr alheimsins. Efnið, segjum vér, er hvers dags ambátt; vér troðum það undir fótum vorum, vindrinn blæs því í andlit vort, vér hnoðum úr því múrsteina, vér byggjum með því hús vor. Vér þekkjum það vel þetta líkamlega efni, sem í öllu er. En andinn er hið leyndardómsfulla í náttúrunni. En nú skal ég segja yðr og ég vil biðja yðr að hugsa nákvæmlega út í það, ég get sagt yðr, að hið eina í þessum heimi, sem vér höfum nokkra vissa þekkingu á, það er einmitt andinn eðr hugrinn. Að nokkurt efni sé til er að eins ályktun, en engin vissa. Í meðvitund vorri er sálin eða hugrinn (mind) hið eina, er vér höfum nokkra beina og óræka þekkingu á. Hvað er það sem vér vitum um alheiminn, um sólirnar og sólnakerfin og hina ýmislegu hluti og hin ýmislegu öfl í heimi þessum? Vér getum að eins þekt og athugað myndir þessa alls og endrskin þess, er það speglar sig í meðvitund vorri. Til sönnunar þessu skal ég skýra það enn betr. Ég rétti út hendina og snerti skrifborðið hjá mér. Ég segi þá: Þarna er eitthvað hart. En hvað meina ég með því? Ég meina hvorki meira eða minna en það, að þarna sé afl, sem þjóti upp eftir tilfinningartauginni í handleggnum á mér, upp í heilann, og einkenni sig fyrir meðvitund minni, sem eitthvað, er veiti snertingu handar minnar mótspyrnu. En hvað þetta sé, sem veiti hendinni þarna mótstöðu, veit enginn maðr í víðri veröld. Tökum annað dæmi af litum: Ég held á bók í hendinni og er bandið blátt. Hvað meina ég nú, er ég segi að bandið sé blátt. Ég meina að eins það, að í vissri ljósbirtu, flytst tilfinning sú eftir sjónartauginni upp í heila minn, sem einkennir sig sem blár litr fyrir meðvitund minni. Ef að það væri að nóttu til, og logaði á gasljósi, þá mundi litrinn sýnast grænn. Í hlutnum sjálfum er hvorki blákka

eðr grænka. Litrinn liggr í tilfinning minni. Meðvitund mín sér hann þannig. Í morgun, þegar leikið var á orgelið, þá heyrði ég eitthvað, sem ég kallaði hljóðfæraslátt (orgelsöng). Hvað meina ég nú með því? Það sem ég á við, er það, að með því að snerta hljóðfærið setr organleikarinn vissar sveiflur í loftinu á stað, en þær skella á heyrnartaug minni, og flytr hún þær svo aftr upp í heilann, en þær einkenna sig þar sem hljóðöldur fyrir meðvitund minni. Alt sem ég því get vitað um þenna heim fyrir utan mig, eru því áhrif þau sem hann hefir á meðvitund mína. Alt sem ég því get gjört, er að búa til ályktanir um þessa hluti. Alt sem ég veit er það, að fyrir utan mig er til vera eðr afl, sem opinberar sig fyrir mér í óteljandi margbreyttum myndum.

Þér vitið víst hvað eitt eðr annað efni eða hlutr er. Vér skulum nú sjá. Vér skulum hugsa oss, að ég haldi á stálbút, sem er eitt fet á hvern kant. Ef að ég hita hann upp að vissu hitastigi, þá bráðnar hann og verðr rennandi, sem vatn, eins og ég sá stálið renna bráðið í tonnatali í verksmiðjunum í Sheffield. Ef vér nú hitum það enn meira, rýkr það upp í loftið sem gufa, en er þó sýnilegt; auki ég hitann enn meira, þá hverfr það skilningarvitum mínum, ég sé það ekki framar, því það hefir þá runnið saman við loftið. — Nú skulum vér aftr taka þenna stálbút eða annan eins. Ætlið þér að hver smáögn í honum snerti aðra? Er hann óholr? Loftlaus? Nei. Það sjáum vér á því, að ef vér beitum nógu mikilli þrýstingu við hann, þá getum vér pressað hann saman, svo að hannn taki upp enn þá minna rúm en áðr. En þetta segir oss, að smáagnirnar í honum, ef þær eru nokkrar, snerta ekki hver aðra. Vér einkennum efnið (líkamlegan hlut) þannig, að það sé afls-miðpunktur, að hann sé fastr, svo að engar tvær smáagnir hans geti tekið upp eitt rúm á sama tíma. Þessar smáagnir stálsins snerta ekki hver aðra, svo að bútrinn sé holulaus eðr loftlaus, því annars gæti ég ekki þrýst honum saman, og þó halda þær sér saman, á einn eðr annan hátt, í sömu stellingum, eins og þær væru festar saman með krókum eða bandi, og það svo sterklega, að það þyrfti þúsundir trölla til þess að slíta þær í sundr.

Vísindamennirnir segja oss, að afl geti ekki verið til aðskilið frá efninu (hinu líkamlega). Nú skulum vér sjá ógöngur þær og botnleysu sem vér komumst í út af þessu efni, sem vér þóttumst þekkja svo vel. Tvær smáagnir efnis eins (hlutar eða líkama) geta ekki fylt

upp eitt og hið sama rúm á einum og sama tíma. Nú vitum vér, að smáagnirnar í stálbút þessum snerta ekki hver aðra, því að vér getum þrýst þeim saman í enn þá minna rúm. Alt fyrir það hafa öfl þeirra áhrif hvort á annað. En nú erum vér komnir í ógöngurnar. Vísindamennirnir eru að reyna að komast í skilning um það, hvernig aflið frá sólunni geti klofið rúmið sem skilr hana frá jörðunni, og haft áhrif á hana. Þeir álíta það ómögulegt, að aflið geti verið til þar sem ekkert efni er, og því segja þeir, að þetta rúm milli jarðar og sólu hljóti að vera fylt með mjög þunnu efni, sem þeir kalla ljósvaka (ether), og flytji svo þetta örþunna efni aflið á milli. Þeir segja, að millibilin í stálbútnum hljóti að vera fylt upp með ljósvaka, svo að aflið geti komist eftir ljósvakanum frá einni smáögn til annarar. En nú skuluð þér, vinir mínir, sjá ógöngur þær sem vér erum í komnir. Ef að hver einn blettr rúmsins væri fyltr einhverju líkamlegu efni, þá yrði alt rúmið fastr óholr líkami, og öll hreifing, hverju nafni sem nefnist, yrði alveg ómöguleg. En sé rúmið ekki fastr líkami, þá hlýtr aflið að vera til, þar sem ekki eru fastir eða óholir líkamir. Ef menn nú skilja þetta, þá hljóta þeir hinir sömu að sjá, að þetta er algjörðr dauðadómr yfir þeim, sem segja að ekkert sé til nema efnið, eða hið líkamlega. Því hér er það sýnt að aflið getr verið til án líkama. Þessvegna eru menn ekki nauðbeygðir til þess, að byggja tilveru aflsins á tilveru efnisins, eða hins líkamlega heims. Og hér stöndum vér frammi fyrir niðrstöðu þeirri, sem hinn nafnfrægi vísindamaðr Faraday komst að, og var hann hinn langmesti efnafræðingr samtíðar sinnar. Hann sagði, að ef vér reyndum að skifta smáögnum efnisins (líkama eins eða hlutar) í smærri og smærri agnir, þá gætum vér komist svo langt, að vér findum eitthvað leyndardómsfult, er vér að eins getum nefnt „a point of force“ (óskiftanlegan part aflsins)*. Hvað er þá þetta einfalda efni? Það getr enginn maðr sagt í víðri veröld. Enginn maðr veit hvar það sé, eða hvað það sé. Ef vér leitum að því, þá líðr það úr greipum vorum sem skuggi væri. Efnið er því ekki sérlega einfalt eða auðskilið, heldr hinn mesti leyndardómr heimsins.

Enn er eitt. Ég get alls eigi skýrt það, að ég hefi hugsanir og tilfinningar, ef að ég er materíalisti (materíalisti er sá, sem að segir að

---

* Point þýðir hér depil, sem hvorki hefir breidd, lengd eða þykt. ÞÝÐ.

ekkert sé til nema hið líkamlega [matter]). Vér skulum hugsa út í það snöggvast. Hugsun hefir enga útþenslu. Kærleikrinn er ekki harðr. Hvorugt þessara hefir nokkurn lit. Vonin hefir enga þá eiginleika, sem vér tileinkum borðinu eða bókinni eða stólnum. Og mér er ómögulegt að skýra hugsanir mínar eða tilfinningar með einkunnarorðum efnisins. Það sem ég áreiðanlega veit, er það, að í hvert skifti sem ég hugsa, fara smáagnirnar í heila mínum á hreifingu. Þannig þreytir og slítr hugsunin heilanum, eins og mokstr með reku þreytir handleggina. Þegar Shakespeare var að hugsa um leikritið „Lear konungr," og skrifa það, þá sleit hann út heila sínum, eins og þegar dráttarhestr slítr kröftum sínum á því, að draga þunga drætti. Enn sem komið er hefir enginn maðr getað brúað þetta hyldýpi milli hugsunarinnar og efnisins (líkamans).

Enn er eitt eftir. Þó að ég geti ekki skýrt hugsanir og tilfinningar með einkunnum efnisins, þá er hins vegar auðvelt að skýra alheiminn, þenna undrsamlega fasta hlut, sem vér erum vanir að hugsa oss, með einkunnum hugans. Ég veit hvað hugsan er og ég veit hvað tilfinning er. Ég hefi beina þekkingu á þessu. Ég skil og hvernig í því liggr og hvernig hljóti að standa á því, að mér skuli sýnast alheimrinn vera dauðr, þótt hann einmitt í sömu andránni geti lifandi verið. Alt það sem ég get haft meðvitund um, er heildin af tilfinningum þeim, er til samans mynda hina persónulegu meðvitund mína. Þessi alheimr getr því titrað af meðvitundarfullu lífi, þótt ég viti ekkert um það. En fyrir mínum augum hlýtr það (alheimrinn) að vera meðvitundarlaust og dautt, af því að þetta líf þess verðr ekki ljóst fyrir meðvitund minni. Það, sem ég vildi koma yðr í skilning um, vinir mínir, er það, að þó að vér getum ekki skýrt hugsanir og tilfinningar, ef að ekkert er í heiminum annað en efni (ef ekkert er til nema hið líkamlega), þá getum vér þó skýrt þetta hið leyndardómsfulla „eitthvað," sem vér köllum efni, þó að ekkert sé annað í alheiminum en það, sem vér köllum anda. Þetta er ekkert bull úr mér, þó að yðr kunni að finnast það undarlegt. Menn, eins og þeir Huxley, Tyndall, Herbert Spencer og Jón Fiske, allir þessir forkólfar hinna nýrri hugmynda heimsins munu segja yðr hið sama. Þeir berjast allir á móti materialism (þeirri skoðun, að ekkert sé í heiminum annað en það sem er líkamlegt), og segja að það sé botnlaus heimspeki og alls eigi vísindaleg skoðun. Mr. Huxley gengr jafnvel svo langt að hann segir, að ef að hann eigi að velja í

milli materialisms annara eins manna og Buchners og idealisms manna eins og Berkeley, þá neyði vísindin hann til að verða idealista. (Idealistar [hugsjónamenn] segja, að ekkert sé til í heiminum annað en hugsjónir, ekkert verulegt eða líkamlegt).

Niðrstaðan á þessu öllu saman verðr þá spurningin: „Hvað vitum vér?" — ekki: „Hvað getum vér getið oss til?" — heldr: „Hvað vitum vér?" Jæ–ja, ég veit að lífið er til, af því að ég lifi. Ég veit að hugsun er til, af því að ég hugsa. Ég veit að ást er til, af því að ég elska. Ég veit að von er til, af því að ég vona. Ég veit að tilbeiðsla er til, af því að ég tilbið. Þetta vitum vér, og þetta og því um líkt er það eina, sem vér getum þekt beint af meðvitund vorri. Enn er eitt sem vér vitum, og er það þetta: Þó að ég viti ekki hvað efnið eðr líkami er í sjálfu sér, þá veit ég þó, að fyrir utan mig, fyrir neðan mig, fyrir ofan mig, alt í kringum mig er — e i n n, eilífr, ótakmarkaðr, almáttugr —, ég veit að til er líf og máttr, er liggr á bak við, er liggr til grundvallar fyrir hinum sýnilegu viðburðum, hinum sýnilegu myndum efnisins, og opinberar sig á óteljandi margbreytta vegu. Mr. Herbert Spencer getr sagt yðr, að næst vorri eigin persónulegu meðvitund er ekkert í öllum heiminum jafn áreiðanlegt og þetta. Vér vitum, að þessi máttr er til. Og svo framarlega sem þessi máttr sé dauðr og líflaus (hreifingarlaus), þá er ómögulegt að skilja í því eða skýra það, hvernig vér getum lifað. En fyrst að vér vitum nú að vér lifum, þá er það fyllilega skýrt og skiljanlegt, það liggr í augum uppi, að álykta það, að þessi vera hljóti að lifa líka, og um leið kemr hún í ljós fyrir meðvitund minni sem það, er vér köllum efni. Þetta eina er því áreiðanlegt: að ég lifi; og hið næsta sem er áreiðanlegt er: að þessi vera er til. Hin skynsamlegasta útskýring á þessu og á mér sjálfum er sú, að veran þessi sé „Lífið," með öllu því sem það orð felr í sér. Ég hefi því ástæðu til þess í ljósi hinna sterkustu sannana, að enda þenna morgun með hinu ljómandi fagra versi:

Thou art, O God, the life and light,
Of all this wondrous world we see
Its glow by day, its smile by night
Are but reflections caught from thee,
Where'er we turn, thy glories shine,
And all things fair and bright are thine.

---

Með því að töluvert umtal hefir orðið um ýmsa messusiði vora, og allmargir eru óánægðir með þá eins og þeir eru, einn söfnuðr hefir meira að segja látið í ljósi ósk sína að fá þeim breytt, einkum að því er snertir skírn, hjónavígslu og fermingu, þá set ég hér sýnishorn af frjálslegri skírnarathöfn. Ég hefi nú upp á síðkastið varla getað haft svo yfir skírnarathöfnina eftir gömlu handbókinni, að hún hafi ekki hneykslað mig, og er það mjög leiðinlegt að svo þurfi að vera. Ég legg nú sýnishorn þetta undir dóm almennings, og þætti gott að fá bendingar frá vinum mínum og trúfélögum, hvort þeim falli það í geð eða hvað þeim þyki að því, eða að hve miklu leyti þeir vilji breyta því.

Einnig vil ég leiða athygli þeirra að sýnishorni af giftingu, sem fylgir á eftir sýnishorninu af skírninni. Seinna mun koma sýnishorn af fermingunni.

---

# Skírn.

[Fyrst er sunginn sálmr og síðan les prestrinn eptirfylgjandi kafla úr Nýja Testamentinu].

En Kristr tók barn eitt, setti það mitt á meðal þeirra, tók það í fang sér og sagði: „Hver, sem tekr á móti einu slíku barni í mínu nafni, hann veitir mér móttöku, og hver, sem veitir mér móttöku, veitir ekki einungis mér móttöku heldr honum, sem sendi mig.“

Og menn færðu börn til Jesú, til þess að hann skyldi snerta þau; en lærisveinarnir ávítuðu þá, sem þau báru. Þegar Jesús varð þess vís, líkaði honum það illa og mælti: „Látið börnin koma til mín og bannið þeim það ekki, því slíkum heyrir guðs ríki til; sannlega segi ég yðr: hver, sem ekki meðtekr guðs ríki eins og barn, mun ekki þangað koma. — Hver, sem lítillægir sig eins og barnið, hann mun mikill verða í himnaríki. Gætið yðar að þér hneykslið eigi þessa smælingja, því ég segi yðr, að á himnum standa englar þeirra augliti til auglitis við föðr minn, sem er á himnum.“ — Síðan faðmaði hann börnin að sér og blessaði þau.

Í Jesú Krists anda viljum vér nú, kæru vinir, helga barn þetta guði í skírninni. Þetta vatn er merki hreinleika þess, sem guð vill að búi í sálum barna sinna, hreinleika þess, sem bjó í Kristi, hans ástfólgna syni, sem kallar oss til hreinleika og heilags lífernis.

*Viljið þér* (foreldrar, frændr eða vinir) *lofa því, að gjöra alt, sem í yðar valdi stendr til þess, að fræða barnið í sannleika guðs?*

*Og viljið þér dyggilega reyna að ala það upp í aga og umvöndun drottins?*

Svar: *Já.*

[Barnið nefnist].

[Prestr tekr upp nafnið, skýrir barnið og segir:]

N. N. Í nafni Jesú Krists og hans heilaga erindis, er hann flutti mönnum, helga ég þig guði, vorum elskulega föðr á himnum.

Faðir vor, o. s. frv.

Látum oss biðja:

Þú almáttugi og eilífi guð, sem hefir lofað oss, að þú skulir ekki einungis vera vor guð, heldr guð og faðir barna vorra, vér biðjum þig, að taka þetta barn í þinn söfnuð, að láta það þjóna sannleikanum, að taka það í arma þinnar miskunnar, í samfélag heilagra. Ó, gef því hraustan og heilbrigðan líkama, góðan skilning, mjúka lund; ó, gef þú því gnægð þíns heilaga anda, svo að það verði stöðugt í trúnni, glatt í voninni, örlátt af kærleikanum, svo að það geti óskaddað gengið í gegnum freistingar heimsins og fái hlutdeild í hinu eilífa lífi ásamt þínum elskulegu börnum.

Gæð þú þessa þjóna þína, ó, guð, með speki af himni. Hjálpa þeim til þess að helga þinni þjónustu þessa dýrmætu gjöf þíns kærleika. Gef þeim þinn heilagan anda, að hann hjálpi þeim og öllum sem hér eru inni til þess, að ganga ávalt fram fyrir þínu augliti í kærleika og hlýðni við þín boð, svo að þeir að lokum fái að sjá þitt auglit í dýrðinni og eilífum friði.

AMEN.

[Blessun].

Friðr guðs, sem yfir gengr allan skilning, haldi huga vorum og hjörtum föstum í þekkingunni og elskunni á guði og Jesú Kristi. Blessun guðs, vors almáttuga föðr, hvíli yfir oss öllum nú og að eilífu

AMEN.

[Sálmr].

# Hjónavígsla.

[1. Brúðhjónasálmr.—2. Ræða.—3. Prestr ávarpar brúðhjónin og segir:]

Heiðruðu brúðhjón! Í viðrvist þessara votta og frammi fyrir augliti hins alls staðar nálæga guðs, lofið þið og skuldbindið ykkr hátíðlega til þess, að elska og annast hvort annað alla ykkar æfi.

[Spurningar til brúðgumans].

1. *Viljið þér, N. N., lofa því hátíðlega, að þér í meðlæti og mótlæti, í heilsu og vanheilsu, í sorg og gleði, viljið annast þessa yngismey* (þenna kvennmann), *sem hjá yðr stendr, vera henni ástríkr eiginmaðr og leitast við að létta henni allar byrðar lífsins meðan dagar endast?*

Svar: *Já.*

2. *Vitið þér yðr lausan við að hafa heitið nokkrum kvennmanni sem nú lifir, eiginorði, sem geti verið þessu til fyrirstöðu?*

Svar: *Já.*

[Spurningar til brúðurinnar].

1. *Viljið þér, N. N., lofa því hátíðlega, að þér í meðlæti og mótlæti, í heilsu og vanheilsu, í sorg og gleði, viljið annast þenna yngismann* (karlmann), *sem hjá yðr stendr, vera honum ástrík eiginkona og leitast við að létta honum allar byrðar lífsins meðan dagar endast.*

Svar: *Já.*

2. *Vitið þér yðr lausa við að hafa heitið nokkrum karlmanni, sem nú lifir, eiginorði, sem geti verið þessu til fyrirstöðu?*

Svar: *Já.*

Gefið þá hvort öðru hönd yðar upp á þetta.

[Þau taka höndum saman].

Með því að þið í votta viðrvist hafið hátíðlega skuldbundið ykkr til þess, að lifa saman í hjónabandi, elskandi, virðandi og hjálpandi hvort öðru, og nú takið höndum saman upp á það, þá lýsi ég því yfir, að þið séuð rétt hjón í nafni hins alls vitanda guðs. Það sem guð hefir samtengt á maðrinn ekki að aðskilja.

Faðir vor, o. s. frv.

[1. Blessun. — 2. Sálmr.].

## TIL KAUPENDA DAGSBRÚNAR.

Í þakklætisskyni við þá kaupendr Dagsbrúnar hér í álfu, sem hafa staðið og standa í skilum fyrir 1. júní næstk. með andvirði hennar, fyrir þenna árgang og hinn umliðna, höfum vér ráðist í að kaupa, og sendum þeim að sumargjöf, hina aðdáanlega fögru mynd

# Faðir vor.

Myndin er með 8 litum, 16x22 þuml. að stærð. Í miðjunni er sporöskjulagaðr hringr, og er Faðir vor á ensku með skrautdregnum stöfum innan í honum ásamt skýrandi myndum, t. d. að taka er orðið „brauð“ í 4. bæninni dregið með kornbindinum. Í kring um hringinn eru boðorðin tíu, einnig skýrð með viðeigandi myndum. — Mynd þessi er listaverk í orðsins fylsta skilningi, og minnumst vér ekki að hafa séð jafn fjölbreytta fegurð á neinni einni mynd.

Það eru vinsamleg tilmæli vor til þeirra sem veita mynd þessari viðtöku, að þeir láti oss vita það hið fyrsta eftir móttökuna.

Öllum nýjum kaupendum að þessum árgangi, sem borga fyrirfram, verðr send myndin borgunarlaust.

Pantanir og borganir allar fyrir Dagsbrún, gangi til

G. M. Thompson. — — Gimli, Man.

— Borgað hafa Dagsbrún, II. árg.: Hjörl. Björnss., Árnes; Baldv. Anderson, Gimli; Jónas Jónsson, Hnausa; Steinþ. Vigfúss., Hecla; Jón Austmann, Selkirk; Th. Thorfinnsson, Hallson; John B. Snæfeld, Kr. B. Snæfeld, Einar Markússon, Finnbogi Finnbogason, Sigrgeir Einarsson, allir Árnes; Jósep Freemann, Gimli; Hjörtr Leó, Winnipeg. (26—4—'94).



Útsölumenn Sunnanfara í Vestrheimi eru: W. H. Paulson, 618 Jemima Str., Winnipeg; Sigf. Bergmann, Garðar, N.D.; G. S. Sigurðsson, Minneota, Minn., og G. M. Thompson, Gimli, Man.


G. M. Thompson hefir á hendi alla afgreiðslu á Dagsbrún og annast fjármál hennar. Kaupendr snúi sér því til hans, bæði með pantanir og borganir


Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún“ skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

„DAGSBRÚN“ kemr út að minsta kosti einu sinni í mánuði.

Árgangrinn kostar í Vestrheimi ........................ $1,00
Sendr til Íslands en borgaðr hér ........................ $0,75
Sendr til Íslands en borgaðr þar ........................ Kr. 2,00

— Verð árgangsins greiðist hvervetna fyrir fram. —

Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.

Ritstjóri: Magn. J. Skaptason.

Prentsmiðja G. M. Thompson.